// Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

9. árg. WINNIPEG, MAÍ 1894. Nr. 3.

## Davíðs sálmr 49.

Eftir séra VALDEMAR BRIEM.

(Lag: Nú fjöll og byggðir blunda.)

1. Nú heyrið, heimsins þjóðir,
nú heyrið, illir, góðir;
eg vísdóm kenna vil;
nú heyrið, háir, lágir,
nú heyrið, stórir, smáir,
það, sem eg yðr tala til:

2. Ei treyst á breyzkan bróður,
þótt bróðirinn sé góðr,
hann fær ei veitt þér frið;
hann aflfár er að vonum
og ofvaxið er honum
að kaupa þér hjá guði grið.

3. Og treyst ei veilt á vitið,
á vitið er ei litið,
er dauðinn ber á dyr;
þá sömu skuld skal svara
og sama veginn fara
þá fróðir bæði' og fávísir.

4. Og treyst þú ei á auðinn,
því óðar kemr dauðinn
og tekr sitt með sér;
af öllu, sem vér eigum,
vér ekkert taka megum,
í gröfina þá göngum vér.

5. Ei treyst á upphefð tóma
né tignarinnar ljóma;
sá ljómi bliknar brátt;
vér allir smáir erum
og í oss dauðann berum
og verðum hér að lúta lágt.

6. Ei treyst á fegrð fríða
né fánýtt glysið lýða;
það fölnar furðu skjótt;
því öllu tíðin eyðir
og ofan á það breiðir
í grafarinnar gleymsku-nótt.

7. Ei treyst þú heimsins hljóli
né hamingjunnar skjóli;
það allt er veikt og valt.
þótt annað allt um þrotni,
þá einum treystu drottni,
sem lifir, hitt er eytt er allt.

## Má reiða sig á guðspjallasöguna?

Eftir dr. *F. Godet* í Neuchatel í Sveiss.

Niðurl.

það hefir enn fremr verið komið með þá mótbáru, að það hefði borið vott um andlegan hroka hjá Jóhannesi, ef hann sjálfr hefði kallað sig „lærisveininn, sem Jesús elskaði“, eins og hvað eftir annað kemr fyrir í fjórða guðspjallinu; slíkan heiðrstitil gæti sá, sem var ástfólginn lærisveinn Jóhannesar og leit upp til hans með lotning, hafa gefið honum, en með engu móti Jóhannes sjálfum sér. Til þessa er nú fyrst og fremst það að

segja, að ekki er neitt undarlegt við það, þótt drottinn Jesús hafi meðal lærisveina sinna átt einn sérstakan vin, sem honum var nátengdari en allir hinir. það ber þvert á móti vott um hið hreina manneðli Jesú, og það er allsendis ólíklegt, að slíku gæti hafa verið skrökvað upp af höfundi ritsins, og þetta hlýtr því að skoðast sögulega áreiðanlegt. Og þar sem nú Jesús átti þvílíkan vin, þá verðr eigi sagt, að sá vinr gjöri sig að neinu leyti sekan í sjálfshóli eða hroka, þótt hann í æfisögu drottins síns og meistara aftr og aftr minnist þessa atviks, sem hlaut að vera honum svo einkar dýrmætt; það var að eins eðlilegr vottr þakklætis hans fyrir hinn makalausa kærleik drottins, er leyfði honum að hvíla við brjóst sitt. Svo er og þess að gæta, að hann nefnir sig hvergi á nafn, né heldr neinn annan þeirra, er honum voru nákomnastir, hvorki Jakob bróður sinn, né Salóme móður sína, og höfðu þau þó hvort fyrir sig mjög mikil afskifti af Jesú.

Enn þá ástœðulausari er staðhœfing sú, að guðspjallið gjöri meira úr Jóhannesi en Pétri. Postulanum hafi eigi getað komið til hugar, að gjöra sjálfan sig dýrðlegan, og þar sem í guðspjallinu sé verið að gjöra svo mikið úr Jóhannesi í samanburði við Pétr, þá sé það vottr þess, að höfundrinn geti ekki verið Jóhannes postuli. En það er tilhœfulaust, að Jóhannes sé í guðspjallinu hafinn upp yfir Pétr. Að draga svona lagaðan skilning út úr því, að Jóhannes við kvöldmáltíðina hefir pláz eða sæti nær Jesú, svo að Pétr verðr að gefa honum bending um að spyrja, hver svikarinn sé (Jóh. 13, 23. 24.), eða út úr því, að Jóhannes hljóp hraðar og varð fyrri til grafarinnar en Pétr, það nær þó engri átt. Eins vitr maðr og höfundr guðspjallsins hefði víst haft ráð á því, að láta þýðingarmeiri og andlegri yfirburði en þetta koma fram hjá söguhetju sinni Jóhannesi. Í nákvæmri samhljóðan við hin guðspjöllin þrjú kemr Pétr í Jóhannesar guðspjalli fram sem hinn hugrakki lærisveinn, er í nafni lærisveinanna allra gjörir þessa játning: „Herra, til hvers ættum vér að fara?“ (Jóh. 6, 68); og eins er hann og í þessu guðspjalli hirðirinn, sem Jesús við burtför sína úr heiminum felr lömb sín til gæzlu (Jóh. 21, 15-17). þeir bera sannarlega vott um allt annað, þessir staðir, en að verið sé í guðspjallinu að kasta rýrð á Pétr í samanburði við Jóhannes.

þá er því og haldið fram, að ræður Jesú í hinu umrædda guðspjalli hafi allt annan blæ á sér en ræður hans í hinum guðspjöllunum. Í stað þess að skýra hinar margvíslegu skyldur lífsins með hugvitsfullum líkingum sé Jesús í ræðum sínum í þessu guðspjalli aðallega að tala um sjálfan sig, samband sitt við föðurinn og þýðing sína fyrir heiminn, og sé næsta lítil tilbreyting í öllum þeim ræðum. Til þessa er nú það að segja, að í þremr fyrri guðspjöllunum eru óneitanlega til þær ræður eftir Jesú, að væri þær ekki einmitt í þeim ritum, myndi sjálfsagt talið, að þær ætti heima í Jóhannesar guðspjalli. Í því tilliti skulum vér benda á Matt. 11, 25. 27: „Eg þakka þér, faðir, drottinn himins og jarðar!......... Allt er mér af mínum föður í vald gefið, og enginn þekkir soninn nema faðirinn, og enginn föðurinn nema sonrinn og sá, sem sonrinn vill það auglýsa;“ sbr. Lúk. 10, 21. 22. það hefir verið sagt af mönnum í nokkurskonar spaugi, að aðrir eins staðir og þessir hafi villzt inn í hin fyrri guðspjöllin; þér sé þeim alveg ólíkir og sé augsýnilega af sama bergi brotnir og fjórða guðspjallið. En hví komust þá þessir staðir inn í þau rit? Aðeins auðvitað fyrir þá sök, að bergið, sem þeir ásamt fjórða guðspjallinu voru brotnir af, var einhversstaðar til, — það er að segja fyrir þá sök, að Jesús hafði í raun og veru talað þannig, að minnsta kosti á sumum tímum æfi sinnar. því að ekki hafa þeir Matteus og Lúkas skrökvað þessum orðum upp. Og hafi þá Jesús talað þannig einu sinni eða tvisvar, þá getr hann hafa endrtekið það mörgum sinnum. Vér komumst þannig að þeirri niðrstöðu, að höfundr fjórða guðspjallsins hafi einkum valið þær ræður Jesú, er hann flutti, þá er hann var sérstaklega hrifinn í anda.

Á þeim stundum, er samfélag hans við föðurinn og þýðing sú, er persóna hans hafði fyrir heiminn, stóð ljósast fyrir sálarsjón hans og hann vildi láta þessa meðvitund sína koma fram í orðum, urðu ræður hans svo einkennilega háfleygar eins og svo skýrt kemr fram í fjórða guðspjallinu. Jóhannes, sem stóð svo undr nálægt hinum guðlega meistara sínum og vini, var mest móttækilegr fyrir slíkan boðskap, er út var genginn frá innsta eðli Jesú; með fögnuði tileinkaði hann sér þann boðskap og lét hann frá sér flytjast til ókominna kynslóða. þetta var nú hans sérstaka náðargáfa og postullega köllun, þar sem hinir postul-

arnir aftr á móti aðallega festu huga sinn við hina hverndagslegu framkomu drottins bæði í orðum og verkum og söfnuðu öllu slíku, til þess það fengi varðveitzt í hinum kristna söfnuði, eins og það liggr fyrir oss í þremr fyrstu guðspjöllunum. Ef því er haldið föstu, hvílík fylling skapanda anda bjó í Jesú, þá verðr ljóst, hve lítið vit er í að tala um guðspjallasöguna sem sögulega óáreiðanlega fyrir þá sök, að nokkuð annað er yfir höfuð að tala dregið fram í fjórða guðspjallinu en hinum þremr. Hið mikla hlutverk guðfrœðinnar er þvert á móti að ná þeim skilningi á persónu Jesú, að það verði ljóst, hvernig báðar guðspjallssögu-tegundirnar, sú, er kemr fram í hinum þrem fyrri ritum, og sú, er kemr fram í fjórðu guðspjallsbókinni, á eðlilegan hátt verða leiddar út frá sömu uppsprettunni. Frá upphafi hefir kirkjan líka með fullum rétti verið þess fullviss og opinberlega við það kannast, að mynd sömu persónunnar kœmi eins og í skuggsjá með áreiðanlegum og lifandi litum út í hinum fjórum guðspjallssöguritum.

Með öllu því, er nú hefir verið tekið fram, er þannig sýnt, að efasemdir þær, sem ýmsir menn á seinni tímum hafa vakið gegn ritvissu Jóhannesar guðspjalls, megna eigi að kollvarpa samhljóða vitnisburði hinna ýmsu kirkjuflokka annarar aldar um rit þetta. Vér skorum á hvern, sem vera skal, að rannsaka málið á þennan hátt: Hann lesi einar tuttugu línur í guðspjallinu og leggi síðan þá spurning fyrir sjálfan sig, hvort sá, sem þannig ritar, muni ekki af innsta grunni hjarta síns hafa trúað því, að atburðir þeir, sem hann segir frá, væri sannir, eða rœður þær, er hann kemr með, sögulega áreiðanlegar, og því næst, hvort hugsanlegt sé, að nokkur maðr láti líf sitt og sálarheill sína standa og falla með trúnni á eitthvað, sem hann sjálfr hefir smíðað í huga sínum eða skrökvað upp. Vér minnum á orðin í Jóh. 20, 31: „En þetta er skrifað, svo að þér tryðuð, að Jesús er Kristr, sonr guðs, og svo að þér, sem trúið, hafið lífið í hans nafni.“ Hér hljóta þó allir að skilja, að væri hér eigi um það að rœða, sem höfundinum var þýðingarmeira en allt annað, þá gæti hann með engu móti talið sáluhjálp heimsins komna undir trúnni á það.

Hvað er nú efni það í fjórða guðspjallinu, sem sérstaklega einkennir það rit og öllum hinum guðspjöllunum fremr opinber-

ar oss þýðing komu Jesú í heiminn? Til þess að svara þessu með einu orði, getum vér sagt: það setr oss fyrir sjónir, hvernig guðdómlegt líf kemr fram í mannlegu lífi Djúpið, sem staðfest var milli hinnar œðstu óendanlegu veru og hinnar endanlegu veru, mannsins, sýnir sig hér að vera horfið fyrir það atvik, að guð stígr niðr til mannsins og maðrinn þar af leiðanda gefr sig guði á vald. Á þann hátt kom elska guðs til heimsins í ljós, að hann, er hann hafði elskað áðr en veröldin var grundvölluð, lítillækkaði sjálfan sig með því að taka á sig mynd mannlegs ljóns og gjörast einn af oss, og lyfti á þann hátt mannlegu lífi svo mjög upp, að það gat fengið hlutdeild í lífi guðdómsins. „Orðið varð hold og bjó með oss." Sökum samfélags þess, er Jesús lifir í með föðurnum, verðr hann, er hann er orðinn maðr, hinn framkvæmdarsami fulltrúi fyrir vilja guðs, sá, er opinberar hinn guðdómlega heilagleik, kærleik og almætti, og sá, er hluttakandi er hinnar guðlegu sælu. Sem maðr hefir Kristr þannig látið samband sitt sem hins eilífa sonar við guð koma fram í jarðnesku lífi, fullu af hlýðni og kærleik, og með því sett guðsbarnastimpilinn á mennina. Því „svo mörgum sem hann meðtóku gaf hann kost á að verða guðs börn, þeim, sem trúa á hans nafn" (Jóh. 1, 12).

Þó að nú annað eins líf og önnur eins starfsemi og lýst er í riti þessu væri að eins hugsjón og hefði í raun og veru aldrei verið til, þá væri það engu að síðr hið göfugasta af því, er mannlegr andi hefir fram leitt. Og hreinn og beinn ómöguleg-leikr er það, að sá skilningr, sem þar kemr fram, á sambandi guðs við mannkynið, hefði af sjálfu sér getað skapazt á þeim tíma, þá er hugmyndir manna í siðfrœðislegu tilliti stóðu svo lágt. En hér er reyndar um meira að rœða en tóma hugsjón. Lífið, þetta makalausa og himinháa, er hér sýnt eins og virkilegleikr, fólginn í því, að orðið hið eilífa verðr hold. Það er sýnt í frásögu, sem úir og grúir af atvikum, er svo meistaralega bera vott um sálarfrœðislega og sögulega nákvæmni. Jafnvel Renan hefir viðrkennt, að í sögulegu tilliti sé fjórða guðspjallið ómissanda til fullkomnunar og rétts skilnings á sögu hinna guðspjallanna. Og er óhugsanlegt, að guðspjallið hefði getað orðið þannig, nema því að eins að höfundrinn hefði í þessu riti sínu samvizkusamlega haldið sér við sögulegan virkilegleik.

Hin ýmsu *apokryfisku* guðspjöll, sem til eru frá fornöld, eru á hinn bóginn ágæt dœmi upp á það, hverju þeir, sem tóku upp á því að búa til rit upp úr sjálfum sér um æfi Jesú, gátu fundið upp á, og það enda þótt þeir hefði fyrir sér hin sönnu kirkjulegu guðspjöll[1].

Vér höfum nú skoðað frumritin, sem vér höfum frá þekking vora á Jesú Kristi. Og ef vér nú að ending lítum á líf hans með þess sérstöku mannlegu einkennum, á samband þess við liðna tímann og þýðing þess fyrir framför mannkynsins, festa sig í huga vorum þrjú atriði, sem nú skulu tekin fram.

1. Það hefir komið fram í mannkynssögunni maðr, sem stóð í beinu lífssambandi við guð, og raskaði syndin því sambandi ekki að neinu. Aldrei gekk neitt orð út af munni hans, sem hann þyrfti að iðrast, og kemr það þó oft fyrir hjá hinum beztu mönnum, að hinar sáru tilfinningar þeirra brjótast þannig út. Eins og barn við föður sinn talaði hann daglega við hinn almáttuga skapara himins og jarðar, án þess þó nokkurn tíma á æfi hans verði talað um aftrhvarf, er leitt hafi til þess samlífs með guði. Að vísu þroskaðist hann andlega fyrir þrengingar og baráttu og fékk á þann hátt aukinn styrk og festu; en það, sem göfugast og guðlegast var í hinu siðferðislega lífi hans, átti rót sína að rekja til hins upphaflega samfélags hans við hinn himneska föður. Þaðan kom honum hin dásamlega fullvissa, sem einkenndi þekking hans á guðlegum hlutum, og vald það yfir hinum sýnilegu hlutum, sem vér með undran tökum eftir hjá honum. Einsog sá, er öll hafði yfirráðin, gekk hann um kring

1) Þar er t. a. m. sagt frá því, að þá er Jesús var á barnsaldri, hafi hann myndað fugla úr leir, og síðan hafi hann lífgað þá með því að anda á þá og látið þá svo fljúga. Þá er þar og sagt, að hann hafi búið til léreft úr vatni, sem út átti að hella eftir að það hafði verið brúkað; og enn fremr, að þá er hann eitt sinn var að smíða með Jósef fóstrföður sínum, hafi hann eitt sinn á yfirnáttúrlegan hátt teygt úr fjöl nokkurri, sem of mikíð hafði verið sagað af. Menn gæti nú auðvitað sagt, að slíkt og annað eins sé barnalegr tilbúningr, sem fundið hafi verið upp á seinna á tímum. En þess er að gæta, að viðlíka hégómamál kemr þegar fyrir í *apokryfisku* guðspjöllunum frá annarri öld og sömuleiðis hjá kirkjufeðrunum frá sama tíma, og því til sönnunar tilfœrum vér úr þeim ritum þetta: Þá er Jesús var skírðr, kviknaði eldr í miðri Jórdan, þar sem hann hafði stigið upp úr vatninu. — Þá er hinn ungi og auðugi maðr heyrði svar Jesú, klóraði hann sér á bak við eyrað. — Jesús segir sjálfr: „Nú einmitt greip móðir mín, hinn heilagi andi, í eitt hár á höfði mér og lyfti mér upp á tind Tabor-fjallsins“. — Þessu líkt kemr allsendis ekkert fyrir í guðspjöllum nýja testamentisins.

hér á jörðinni, og þó var enginn eins auðmjúkr og ástúðlegr í orðum og verkum eins og hann. Með göfugum, óviðjafnanlegum orðum vitna hin fjögur guðspjöll um þetta atvik, sem stendr alveg eitt í sinni röð, þetta tignarlega líf, sem ólíkt er öllum mannslífum, er birzt hafa í sögu heimsins.

2. Hvorki óvænt né undirbúningslaust kom þessi mikla persóna fram á sjónarsvið heimsins. Rit hinnar útvöldu þjóðar höfðu sagt komu hans fyrir, og hinir helgu menn þjóðarinnar höfðu í anda séð hann áðr en hann kom. Allr þorri Gyðinga og meir að segja margir heiðingjar höfðu hjartanlega þráð komu hans. Margar holdlegar og veraldlegar ímyndanir höfðu að vísu blandazt inn í þrá þjóðarinnar eftir honum og vonina um komu hans, eins og eðlilega vill verða, þegar mannsandinn náttúrlegi ætlar sér að ná haldi á guðlegum hugsunum; en fyrir guðhræddum Ísraelsmönnum vakti þó ávallt heilög framtíðarmynd, sem vonin um frelsan allra þjóða var bundin við. Þegar á elztu tímum höfðu undirstöðudrættirnir í þessari mynd verið sýndir, en síðar kom myndin hjá spámönnunum fram með fleiri og nákvæmari dráttum og varð æ skýrari og skýrari, þar til er hún var fullgjör orðin, og hefir þetta aðalatriði hinnar fornu sögu reist sér ævaranda minningarmark í gamla testamentinu.

3. Í samhljóðan við ráðsályktan guðs mönnunum til frelsis viðrkenndi þessi heilagi maðr það sem æfistarf sitt að koma því til leiðar, að mannkynið fengi endrfœðzt. Hlaut hann þá fyrst fyrir sjálfan sig að vinna sigr á synd og dauða, hinum tveim óvinaöflum mannlífsins, og það gjörði hann með hinni fullkomnu hlýðni sinni og hinni yfirnáttúrlegu upprisu sinni. Því næst lét hann köllun út ganga til allra manna um það að þiggja af honum fyrirgefning guðs og hið guðlega líf, sem hann hafði látið koma fram í sjálfum sér, og batt hann þannig í raun og veru lausn allra manna frá synd og dauða við sína eigin persónu. Frá himni ofan, þar sem hann í upphefðarstöðu sinni lifir sístarfandi, veitir hann nú öllum, sem persónulega ganga honum á hönd, hið heimsigranda vald hins andlega eðlis síns, og ummyndar smásaman allar tilfinningar þeirra og allan vilja þeirra eftir dýrðarmynd hans sjálfs. Og því samfara er það, að þekking á honum og hinum andlegu yfirráðum hans breiðist út til endimarka jarðarinnar og leiðir fram nýtt líf hjá hinum

heiðnu þjóðum, sem svo djúpt hafa frá guði fallið. Þrátt fyrir allt hið mikla, sem að er í kirkjunni, ber þó saga síðustu nítján alda dýrðlegan og óslitinn vitnisburð um allt þetta.

Allt staðfestir þannig áreiðanlegleik guðspjallasögunnar: það allt, sem fram hefir komið og enn kemr fram í sögunni sem *afleiðing* af komu Krists í heiminn, og það allt, er gjörðist í sögu Ísraelslýðs áðr en Kristr fœddist og varð til þess að *undirbúa* komu hans.

* * *

Kristinn trúboði einn, er lengi hafði átt heima meðal *Betsjúana*, villts þjóðflokks í Afríku sunnanverðri, segir frá því, að hann hafi oft heyrt konur þar syngja: „Hver vill gefa oss keðju, sem kemr frá himni ofan? Vér myndum þá taka í hana og hún myndi lyfta oss upp?“ Svipað andvarp rís upp í hverju mannshjarta, sem nokkra tilfinning hefir, frá hverjum anda með heilbrigðri hugsan. Og koma Jesú Krists í heiminn er hið guðlega svar upp á það andvarp. Í honum hefir ráðsályktan guðs kærleika náð sinni uppfylling: að vera a l l t í hinum e i n a til þess f y r i r þ e n n a n e i n a að verða a l l t í ö l l u (Ef. 1, 10; 1. Kor. 15, 28).

Í því hjarta, þar sem þetta andvarp eftir því, sem himneskt er, er kœft niðr eða þar sem því aldrei er leyft að koma fram, þar verða allar sönnunartilraunir til ónýtis. Allar skynsemisástœður leitar maðrinn þá upp til þess að sleppa við það, að hið heilaga komi honum of nærri, — og hann fær þann vilja sinn. En hvernig fer þá fyrir þeim hinum sama? Sé stryki slegið yfir hina guðlegu frelsisráðstöfun sögunnar, þá eru þar með algjörlega skornar sundr þær taugar, er tengja mennina við það, sem fyrir ofan er, hið eilífa, og maðrinn hnígr með líkama og sál niðr í hina hégómlegu smámuni hins daglega lífs. Og þá er óhætt að gjöra þá játning, að engin lífsskoðan geti verið of dimm og að fullkomin ástœða er þá fyrir manninn til að taka undir með nútíðarspekingunum, sem út af vantrú sinni gjöra svo látandi játning: „Það, sem bezt er í lífinu, er dauðinn“.

Allt annað útlit fær mannlífið, þegar þorstinn eftir hinu heilaga helzt lifandi í samvizkunni og hin guðlega frelsisráðstöfun í Kristi er viðrkennd sem miðpunktr mannkynssögunnar um leið, manninum til blessunar, nær fullkomnum yfirráðum

yfir hjartanu. Frá þessari uppsprettu fær hin jarðneska tilvera ljós og von, himneskt upplyftingarafl og eilíft gildi. það borgar sig að vinna að því verki, sem Kristr lætr halda áfram hér á jörðunni, að lifa, starfa, stríða og líða í hans þjónustu. þegar hin áðr nefnda myrka og eigingjarna lífsskoðan lætr til sín heyra hina nöpru umkvartan sína út af því, hve lífið sé illt, þá tekr hið trúarörugga hjarta undir það með postulanum og segir: „En þökk sé guði fyrir sína óumrœðilegu náðargjöf!“ (2. Kor. 9, 15).

## Nýtt kirkjuþingsmál.

Eftir séra Friðrik J. Bergmann.

Bráðum höldum vér, ef guð lofar, hið 10. kirkjuþing vort. Eins og menn muna, var kirkjufélag vort stofnað sumarið 1885, og hélt það þá hið fyrsta þing sitt í Winnipeg. Síðan eru nú liðin *níu* ár. *Tíu*-ára afmæli sitt heldr það, ef guð lofar, að sumri komanda.

Hvers höfum vér nú að minnast? Um fram allt guðlegrar náðar, sem aldrei hefir yfirgefið oss, heldr stöðugt haldið oss upprèttum. Oft og tíðum hafa örvar hins illa gegn oss svo þykkar verið, að vart hefir mátt til sólar sjá. En afllausar hafa þær orðið niðr að falla, án þess að vinna málefni drottins nokkurt mein, ekki vegna þess að hið mannlega mótstöðu-afl hafi svo mikið verið, eða fylkingin svo þétt, eða vörnin svo frækileg, heldr að eins af þeirri ástœðu, að drottinn er með sínum til daganna enda. þegar eg lít yfir þessi níu ár, sem liðin eru af vorri kirkjulegu starfsemi, sé eg þá hugsan áþreifanlega staðfesta, sem lifað hefir í brjósti þeirra, er uppi hafa staðið í hita og þunga dagsins, og haldið hefir þeim uppi, að drottinn hefir kannazt við málefni kirkjufélagsins sem sitt málefni og gefið því blessan sína. Og hann, sem blessað hefir viðleitni vora og baráttu í níu ár, mun vissulega gjöra það í níutíu og níu ár, svo framarlega sem vér göngum á hans vegum og reynumst trúir við náðarboðskap drottins vors Jesú Krists.

Af öðru en þessu höfum vér nú ekki að miklast. En hví skyldum vér ekki láta oss nœgja náð drottins? Engin þrekvirki höfum vér unnið, ekkert mikið afrekað; oss er eigi unnt

að benda á neitt, er gjöra megi nafn vort frægt. Vér höfum heldr ekki verið að leita frægðarinnar, — að eins þess, að gróðrsetja guðs ríki meðal fólks vors í þessu framandi landi, að sem flestir mætti halda fast við þann náðarboðskap, sem vér höfum meðtekið, og fyrir hann frelsaðir verða Starfsemi kirkjunnar fer ekki geyst. það er eðli hennar að vera hœgfara. Vöxtr hennar og viðgangr er líkastr trésins. Enginn verðr þess var, þegar það er að vaxa. Enginn munur sést á hæð þess með degi hverjum. Og þó er það að vaxa, skjóta rótunum dýpra, breiða út greinar sínar meir og meir. Guði sé lof! Hans ríki meðal vor hefir verið að vaxa, skjóta rótum sínum dýpra, fá meiri og meiri festu, verða öruggara fyrir öllum stormum og straumum. Verkið er drottins, ekki mannanna. Hans nafn þarf að verða svo frægt meðal vor, að öll önnur frægð hverfi. Honum sé lof og dýrð fyrir hin liðnu níu ár af æfi kirkjufélags vors!

En um leið og vér horfum til baka, horfum vér líka fram fyrir oss. Hvað eigum vér fyrir hendi? Hvernig eigum vér að sjá fyrir ráði voru? það hefir drottinn þó vissulega boðið oss og til þess hefir hann gefið oss sinn anda. Er það ekki óvit fyrir hinn veika kirkjulega félagsskap vorn, að ætla sér að standa einn og út af fyrir sig innan um öll hin mörgu kirkjufélög þessa mikla lands? Ættum vér ekki, sem erum svo fáir og veikir að kröftum, að standa í sambandi við þá kirkjudeild lands þessa, er hefir sömu trú og vér og berst að öllu leyti undir sömu merkjum? Ættum vér ekki að ganga í félagssamband við trúarbræður vora hér í landinu, sjálfum oss til styrks og fulltingis í hinni kirkjulegu baráttu vorri? þetta er vissulega spurning, sem vér ættum vel að íhuga.

Eins og kunnugt er, myndar lúterska kirkjan hér í landinu ekki eina heild, heldr er aðalmagni hennar skift á milli 5 stórra kirkjufélaga, sem eru hvert öðru óháð og standa ekki í neinu félagslegu sambandi hvert við annað. þar að auk eru býsna mörg smærri lútersk kirkjufélög, sem enn standa ein sér, án þess að hafa gengið í nokkurt samband við hin stœrri félög; af þessum smáfélögum lútersku kirkjunnar hér í landinu er nú íslenzka kirkjufélagið eitt. það er almennt viðrkennt, að afl lút. kirkjunnar og framfarir myndi verða enn þá meiri en þær eru, ef öll félög þessi sameinuðu sig og mynduðu eina félags-

heild. Smásaman er líka sífellt að fœrast í það horfið, þótt ef til vill eigi þessi sameiningarhugmynd enn nokkuð langt í land. Valda því að sumu leyti ofrlítið ólíkar skoðanir á ýmsum smáatriðum, en að mestu leyti eru það hin ólíku þjóðerni og tungumál, sem eruþessu valdandi. Engin hinna prótestantisku kirkjudeilda talar jafnmörgum tungumálum og lút. kirkjan.

Eitt af þessum 5 aðalfélögum lútersku kirkjunnar er hið svo nefnda *General Council.* Lesendum *Sameiningarinnar* er orðið það býsna kunnugt, því þess hefir oft verið minnzt í blaðinu. það er einna yngst, en hefir tekið skjótari framförum og viðgangi en nokkurt hinna, og aukast þau þó og eflast geysimikið öll á ári hverju. Í öllum ágreiningsatriðum kirkju vorrar hefir það farið sannan meðalveg, og sýnt með því bæði stilling og gætni. það hefir því fengið lang-almennasta tiltrú. Sýndi það sig bezt, þegar hið volduga kirkjufélag Svía, hin sterka og afar-fjölmenna Augustana-synóda, gekk í bandalag við General Council fyrir nokkru síðan. Má svo að orði kveða, að síðan hafi allr sameiningarstraumrinn innan lútersku kirkjunnar hér í landinu, sem með hverju ári verðr þyngri og þyngri, stefnt þangað. Sem dœmi þess má benda á Norðmenn. Fyrir skömmu myndaðist hin „Sameinaða norska kirkja“, og af þeim, sem eru hennar málum kunnugastir, er það að eins álitið tímaspursmál, að hún sameinist *General Council.*

Sannfœring mín er því sú, að svo framarlega sem kirkjufélag vort áliti það heppilegra að mynda félagssamband við eitthvert hinna stœrri kirkjufélaga lútersku kirkjunnar,þá ætti það einmitt að vera *General Council.* Til þess ber svo margt, að hér er ekki unnt að drepa á það allt. þetta kirkjufélag hefir nú upp á síðkastið meira fyrir oss gjört en nokkurt annað. Tveimr af prestum kirkjufélagsins hefir það nýlega kennt og kostað þá til námsins. Að ári liðnu eigum vér von á ungum og gáfuðum manni, sem það hefir í 5 ár styrkt til náms, og ef guð lofar tekr hann guðfrœðispróf í Philadelphia að vori. þess utan hefir það nú í fjögur ár kostað efnilegan ungan mann, er ganga vill í þjónustu kirkju vorrar, á latínuskóla sínum einum, *Thiel College* í Pennsylvania-ríkinu. Og enn hefir það tekið að sér ungt prestsefni, sem dvalið hefir nú í vetr á skólanum í Chicago. Vér hefðum vissulega verið lakar staddir nú en vér erum og

framtíðarútlitið hefði verið töluvert daprara en það er, ef drottinn hefði ekki vakið þessa lútersku trúarbrœðr vora til þess þannig að rétta oss hjálparhönd.

Akademíinu voru fyrirhugaða höfum vér vissa von um með guðs hjálp að koma í framkvæmd á sínum tíma. En eins og kunnugt er, á það að verða almenn menntastofnun fyrir pilta og stúlkur, er verja vilja einum þremr árum af œsku sinni til að menntast fyrir lífið. En svo framarlega sem vor kirkjulegi félagsskapr eigi að halda áfram og gjöra sig verðugan drottins blessunar, verðum vér að vera oss úti um einhvern vissan stað, þar sem hinir tilvonandi prestar vorir geta aflað sér þeirrar menntunar, er gjöra megi þá hœfa til að gegna trúlega embættum sínum, sem trúaðir og samvizkusamir kennimenn og sálusorgarar. Hingað til höfum vér leitað til þessa áminnzta kirkjufélags í vandrœðum vorum, og það hefir hjálpað oss eins drengilega og þegar hefir verið bent á. Innan skamms verðr svo komið, að flestir af prestum kirkjufélags vors hafa þar fengið menntun sína og þar að auk peningalegan styrk til náms síns hjá þessu kirkjufélagi. En ef vér eigum til langframa að búast við slíkri hjálp, sem er oss svo öldungis ómissandi, er það að sjálfsögðu skylda vor, að sýna þakklæti vort og viðrkenning með því að gjörast einn hluti þess mikla kirkjulega félagskerfis, sem félag þetta myndar.

Hvaða skyldur myndum vér takast á herðar með þessu móti? Þannig mun margr spyrja. Þessu er fljótsvarað. Vér bindumst engum nýjum böndum, tökum engar nýjar skyldur á herðar vorar, nema ef vera skyldi þá, að senda einn erindsreka á kirkjuþing þeirra, sem haldið er annaðhvort ár. Vér höfum því allt að grœða, en engu að tapa. Margar nytsamar og nauðsynlegar hugmyndir myndi þannig streyma inn til vor. Vér myndum kynnast helztu mönnunum, sem eru að starfa að útbreiðslu lút. kirkj. í þessu landi, og læra að þekkja þá aðferð,sem þeir við hafa til að hrinda fyrirtœkjum sínum áfram. Nýtt kirkjulegt líf og nýr kirkjulegr áhugi myndi frá þeim streyma inn til vor. Þar að auk myndi vegrinn á þennan hátt opnast fyrir oss til að fá þessa trúarbrœðr vora til að styrkja oss með framkvæmd skólahugmyndarinnar.

Margt fleira mætti telja máli þessu til gildis. Eg ætla þá

að láta hér með staðar numið. Eg vildi að eins koma hér fram með þá tillögu, að mál þetta verði borið upp til umrœðu á næsta kirkjuþingi voru, og við það verði lögð öll sú alúð, sem það á skilið. Mér kemr það svo fyrir sjónir, að með þessu væri framtíð kirkjufélags vors tryggð á þann hátt, sem ekki er unnt að gjöra með nokkru öðru móti.

## Aðventusálmr.

eftir séra Lárus Halldórsson.

(Lag: Sem börn af hjarta viljum vér.)

Í helga borg í hinnsta sinn
er hógvær Jesús ríðr inn,
með fögnuð syngr fjölmennt lið,
og fagrt heyrist viðkvæðið:
Blessun þeim, sem hógvær hér
hæsta drottins í nafni fer.
Hósianna!
Hósíanna!
Hósíanna
syni Davíðs sé.

Vor Jesús heldr innreið enn,
því allir fagna kristnir menn;
og borgin helga er heimsins ból
og herrann Jesús lífsins sól.
Blessun öll er honum hjá,
heims er vitjaði guði frá.
Hósíanna!
Hósíanna!
Hósíanna
syngjum syni guðs.

Í hinnsta sinn, vor herra kær,
með hógværð kom oss öllum nær,
og lífsins myrkrum leið oss frá
í ljósið dýrðar guði hjá.
Blessun öll er honum hjá,
heims er vitjaði guði frá.

Hósíanna!
Hósíanna!
Hósíanna
guði' í hæstu hæð.

**Barnasálmarnir** eftir séra Valdemar Briem eru nú í stað sálmabókarinnar teknir upp til söngs í sunnudagsskólanum í Winnipeg, Sama verðr væntanlega smásaman gjört í öllum öðrum sunnudagsskólum kirkjufélagsins.

Séra Hafsteinn Pétrsson hefir nú um tíma haldið uppi guðsþjónustum suðvestan til í Winnipeg-bœ í skólahúsi einu (*Mulvey School*) fyrir Íslendinga, sem þar búa í grenndinni, og sömuleiðis norðaustan til í bœnum í kirkju einni enskri fyrir fólk, sem heima á á svæði því, er nefnt er *Point Douglas.* Ef til vill verðr bráðum sérstakr söfnuðr myndaðr á hinu fyr nefnda svæði, og tilraun er þegar ákveðin þar til sunnudagsskólamyndunar.

Nú áðr en erindsrekar hinna ýmsu safnaða kirkjufélagsins búa sig á stað til þessa næsta kirkjuþings hlýt eg að minna þá og söfnuðina yfir höfuð á það, að talsvert minna en ekki neitt er nú til í hinum svo kallaða kirkjufélagssjóði. Missíónsprestr kirkjufélagsins, séra Björn B. Jónsson, sem vígðr var í fyrra upp á ákveðin laun úr sjóði félagsins, á nokkuð af þeim launum enn úti standandi, og sú skuld má með engu móti standa lengr óborguð en fram að þessu kirkjuþingi. Erindsrekar safnaðanna mega því engan veginn í þetta skifti koma svo til þings, að þeir ekkert hafi með sér frá söfnuðum sínum til afborgunar þeirri skuld. Og er líka að muna eftir því, að auk embættislauna séra Björns hvíla nú ýms smáútgjöld á kirkjufélaginu viðlíka og á undangengnum árum. Hver einstakr söfnuðr hefir bæði siðferðislega og *lagalega* skyldu til þess árlega að leggja sinn skerf til kirkjufélagssjóðsins.

*Jón Bjarnason*, forseti.

## Kirkjuþings-boð.

Hér með auglýsist almenningi í söfnuðum hins ev. lút. kirkjufélags Íslendinga í Vestrheimi, að kirkjuþing félagsins,

hið 10., sem samkvæt ályktan kirkjuþingsins í fyrra á að haldast í Víkrsöfnuði í Norðr-Dakota, verðr sett í kirkju þess safnaðar að Mountain *þriðjudaginn 26. Júní* að aflokinni guðsþjónustu, sem byrjar einni stundu fyrir hádegi. — Erindsrekar safnaðanna gæti þess, að hafa með sér á þingið hin lögboðnu skilríki.

Winnipeg, 17. mai 1894.

JÓN BJARNASON, forseti kirkjufél.

---

KVITTANIR:

Gegnum séra Jón Bjarnason hefi eg undirskrifaðr veitt móttöku þessum fjárupphæðum upp í borgun fyrir bókasafn séra Eggerts heitins Briems, er í fyrra var af mér keypt á Íslandi til handa hinu ísl. lút. kirkjufélagi í Vestrheimi:

| | | | |
|---|---|---|---|
| Frá séra J. Bj. | $10.oo, | séra Fr. J. Bergmann | $20.oo |
| — séra Stgr. Þorlákss. | 20.oo, | Fr. Friðrikssyni | 25.oo |
| — Sigfúsi Bergmann | 10.oo, | Ol. Einarss | 5.oo |
| — Sv. Sölvas | 2.00, | H. Fr. Reykjalín | 2.00 |
| — Birni Jónssyni | 5.00, | Ásv. Sigurðss | 2.00 |
| — Tómasi Paulson | 2.00, | Sk. Arasyni | 12.00 |
| — P. S. Bardal | 2.00, | Dr. M. Halldórsson | 10.00 |
| — H. Hermann | 2.00, | séra Jónasi A. Sigurðss. | 10.00 |

Enn fremr borgað til mín beinlínis:

| | | | |
|---|---|---|---|
| Frá séra Hafst. Pétrss. | $20.00, | Á. Friðrikss | $25.00 |
| — J. A. Blöndal | 5.00, | W. H. Paulson | 2.oo |
| — M. Paulson | 5.00, | A. Freeman | 5.00 |
| — A. S. Bardal | 0.50, | Sigtr. Jónass | 20.00 |

og auk þess ágóði af fyrirlestri, er eg flutti í Winnipeg, $9.25.

*Sigtr. Jónasson.*

---

TIL SKÓLANS.

Samskot úr Þingvallanýlendu (afhent af séra Birni B. Jónssyni) $7.00.

---



---

Lexíur fyrir sunnudagsskólann; þriðji ársfjórðungr 1894.

1. lexía, sunnud. 1. Júlí: Fœðing Jesú: Lúk. 2, 1—16.
2. lexía, sunnud. 8. Júlí: Barnið Jesús borið til musterisins: Lúk. 2, 25—38.
3. lexía, sunnud. 15. Júlí: Koma vitringanna úr austrlöndum: Matt. 2, 1—12.
4. lexía, sunnud. 22. Júlí: Flóttinn til Egyptalands: Matt. 2, 13—23.
5. lexía, sunnud. 29. Júlí: Œska Jesú: Lúk. 2, 40—52.

---



---

„SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrir fram. — Skrifstofa blaðsins: 704 Fifth Ave. N., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Páll S. Bardal, Friðrik J. Bergmann, Hafsteinn Pétrsson, N. Stgr. Þorláksson, Magnús Pálsson, Jón Blöndal.

PRENTSMIDJA LÖGBERGS — WINNIPEG.